# TÆKIFÆRI OG TÍNINGUR



**BJARNI JÓNSSON**

FRÁ VOGI



REIKJAVÍK

PRENTSMIÐJAN GUTENBERG

1906

Digitized by Google

# TÆKIFÆRI OG TÍNINGUR



**BJARNI JÓNSSON**

**FRÁ VOGI.**



REIKJAVÍK
PRENTSMIÐJAN GUTENBERG
1906

Digitized by Google

## Þakkir

**til stúdenta í Kaupmannahöfn og latínuskólasveina í Reikjavík og grend.**

Von er það að vinaflokkar
verði þinnri, er á skal herða.
Bestri muntu raun þá reina,
rógur er þig bítur nógur.
Veit eg nú, hvar vinir sátu,
vel skal una og lengi muna.
Þið mig vörðuð vinarorðum,
vildi eg launa eins og skildi.

Engum bíð eg gull né gróða,
glæstan hjálm né bjartar skálmar,
þótt mín hafi á verði varðað
vígaskörð með geði hörðu.
Þó er ekki að mig þakkir
inna físi hinum minni.
Hitt er sök að hungurvaka
hefur mig brjósti nært og fóstrað.

Ungur sá eg áður löngum
alla sólarstafi falla
ifir tún og teiga væna,
teiga sólveig grund og hóla.
Þá var gróður hæst í hlíðum,

Digitized by Google

hló við sjávarfitin gróin,
alt þar milli og upp til fjalla
ólu og vermdu geislar sólar.

Sólarstöfum öllum ofar,
öllu fegri blómi á völlum,
hreinni tærum himins bárum
hugann vonir tóku á flugi.
Unaðsheima og hlía óma
hann þá allvel lét sér falla,
sá þá brosa og ljósi lísa,
lífsins rún á vona brúnum.

Þaðanaf vængur þó varð löngum
þungur mínum vonum ungum.
Döpur er, þá ofan hrapa,
æfirún á vonabrúnum.
Lifir þó, og öllu ofar,
ein í mínum hugarleinum,
neisti fagur. Leggi af loga
lands á braut með himinskautum.

Þær skal ikkur inna þakkir,
er eg bestar veit og mestar:
*vonarneistann fá til fósturs.*
Falla heldur skuluð allir,
en að vængstífð verði að engu
vonadrotning Íslands sona:
*landið frjálst, í líðsins öndu*
*ljóði og vonum fegri gróður.*

Digitized by Google

## Ása Ísleifsdóttir.

Nú situr þungbrín sorg í móðurranni
í sæti, er fær hún eftir þig,
er vonir þínar allar, ungi svanni,
til annars heims nú flitja sig.

Og eintal þungt hún á við þína móður
um alt, er hún á bak má sjá,
og sára kveðju sendir þínum bróður
og sistra þinna döggvar brå.

Því liljan þeirra nú til föðurfunda
er farin og við sistur hlið
nú ljósið þeirra litla fær að blunda
í ljúfri grafarkirð og frið.

En er þeim sorgarþungi tekur þjaka,
til þeirra komdu á draumastund
og láttu þínar vonir vorljóð kvaka
og veita grátnum augum blund.

En dagsins harma láttu minning míkja
og minna betri tíma á,
svo beiskja tregans verði burt að víkja
og verði sorgin mild á brá.

Nú hverf þú, liljan vor, til föðurfunda
og fáðu reit við sisturhlið.
Þar skaltu, ljósið okkar litla, blunda
og ljúfa geta hvíld og fríð.

Digitized by Google

## Hulda.

Löngum skiftast
í skapi mínu
ólíkar mindir,
sem óðar hverfa
En bjargföst æ
í brjósti mínu
minning þín bír,
mær hin bjarta.

Vissi eg löngu
að vinhlí augu
bál höfðu kveikt
í brjósti mínu.
Fund þinn því
eg flía vildi
og gleima svip þínum
svanna príði.

En þegar svölum
sveipar faðmi
sólu ver
til viðar gengna,
stígur minning þín
mær og fögur
á andans himin
sem aftanstjarna.

Digitized by Google

Þögul en blíð
með brosi mildu
ástaraugum
þú á mig lítur.
Hrein eins og stjarna
á himni nætur
augu þín skína
með eldi helgum.

Þá er sem færist
friður blíður
ifir mæddan
muna vinar,
þess er þú máli
mæltir aldrei,
en þögul leindan
loga vaktir.

Vaka mun æ
og vaka hlíleg
minning þín
í muna leinum.
Er eg einmani
og als um þurfi
fer á flótta,
hún filgi mér ein.

Digitized by Google

## Móðurkveðja.

Nú eru stjörnur vænstu vona minna
á vori birgðar köldum skía hjúp,
first hjartkær urðu blisin brúna þinna,
þú barnið mitt, að hníga í feigðardjúp.

Nú vorsins geislum verður þungt að hugga
og verma grátna lund og hrigga sál,
first þú ert vafin dimmum dauðans skugga
og dáið út míns hjarta vonarmál.

Og sár mun verða fregnin föður þínum,
að faðmi gröfin eftirlætið hans,
með von í hug er hann á kneri sínum
úr hafsins volki kemur inn til lands.

En minning þín og vænstu vona minna
sem vor og sumar hugga grátna lund,
og blessuð litlu ljósin brúna þinna
mér lifa inst í hug á raunastund.

## Lífið.

Ekkert veit ég
öllu fegra
von á æskuárum.
En hvikulli er hún

Digitized by Google

þó hlutum flestum
mannsins morgunsunna.

Þegar hún dofnar,
úr djúpi munar
minning hlí sig hefur,
miðdegis-eigló,
aftansunna
geimin eins og gröfin.

Engi er þörf
á ævilegi
hafvillur að hræðast;
Sólarlausir
lífsins dagar
geta aldrei orðið.

## Báran.

*Ég:* Hví grætur þú, báran mín bláa,
og blundvana þögla um nótt
þú andvarpar úthafs við ströndu,
þá öðrum í draumi er rótt?

*Báran:* Minn unnusti, himininn heiði,
mér hvarf firir ómuna tíð.
Hans minnig í geði ég geimi
og grátandi dauða míns bíð.

Digitized by Google

Og mind hans í brjóstinu bjarta
ég ber eins um morgun sem kvöld,
um daga sem dimmar um nætur,
uns dauðans ég skildukvöð geld.

*Ég*: Ég skil, hví þú andvarpar, alda,
og eins get ég skilið þín tár.
Mér hvarf sú, er heitast eg unni,
þinn harmur ég veit að er sár.

## Staka.

Ég má þig ekki muna,
en man þig alla tíð.
Á gröfum góðra vona
því græt ég ár og síð.

## Minni Íslands.

Frjáls mun andinn, einörð lundin,
ótrauð hönd til þarfa og starfa,
viljans eldi ei mun kvölda
eða vonum landsins sona,
meðan gillir fold og fjöllin
fagurheiður sólskins dagur,
meðan votar lækir lautir
líða fram að bláum víði.

Digitized by Google

Gunga hafti amar engin,
unír þlauður réttar hruni,
ófrjáls maður öllu hlíðir,
álfar kissa vöndinn sjálfan.
Drengir hraustir, huga treistum,
hverfum þétt að merki réttu.
Enginn vægir eða sveigir
undan meðan frjáls er lundin.

Mer og reitir hálsinn helsi,
hunda unir slíku lundin;
geir í hlekkjum garmur þakkir,
getur mat við frelsi og étur.
Samir oss með ægihvössum
undalinna frelsi að vinua,
aldrei heikjast eða víkja,
allir heldur að velli falla.

Meðan hríslar hlíum geislum
himinsunna um lönd og unnir,
meðan undan fellum falla
fljótin köld að sjávaröldum,
rétt skal hugsað, rekkar hvattir
rétt að vilja, hag sinn skilja,
aldrei hikað, eldur vaka
andans til að verja landið.

Digitized by Google

## Á sandi.

Langt er nú síðan
í lágri brekku
sat ég hjá þér, svanni.
Börn við lékum
og bigðum tíðum
hús úr sandi á sandi.

Ugsum við saman,
ógs hin sama
von í beggja brjósti,
reisti okkur fagrar
framtíðar hallir
sólu giltar — á sandi,

## Vilhjálmur Jónsson.

Þig kvökuðu flugléttar vonirnar við,
nú vængir þeirra magnlausir falla að hlið.

Á höndum sér bar hún þig, hugsjónin ung,
í hennar stað kom dauðinn og vanheilsan þung,

Og ættjörðin frjáls var þér sárþráðust sjón,
nú sirgir útför þína vort hrímklædda Frón.

Digitized by Google

Þú þektir ei fegra en frjálslindi' í sál,
nú fækkar þeim um einn, sem er hugstætt
það mál.

Það góða', er þú vildir, þó gera samt þarf,
við geimum þinna vona og hugsjóna arf.

Og auðnist því nokkrum af okkur að ná,
þá er þín minning starfandi bræðrunum hjá.

Nú þökkum við samvinnu' og þökkum þér alt,
er þögull dauðinn bíður þér hvílurúm svalt.

En hlírra þú átt þér i huga okkar bú,
þar hafa fáir ljúfara sæti en þú.

## Gleðilegt sumar.

Lag eftir Árna Thorsteinsson.

Öll él birtir upp um síðir,
ísa linast heljartak,
flía kuldar, hret og hríðir,
hafís, frost og vindar stríðir
vordísanna vængjablak.
Hækkar sól og sumarvindar
svífa í dansi yfir land,
hírna og brosa bláir tindar,
bráðum fríkka tún og rindar,
vefst um hlíðar blómaband.

Digitized by Google

Fillir sumar-ómur eira;
öllum flitur vonarmál:
»Eitthvað stærra, eitthvað meira,
af því miklu, langtum fleira,
sem að hrífur hug og sál«.
Von og sumar saman kveði
svanarómi gleðilag,
veki il í allra geði,
öllum veki hreina gleði
langan, sælan sumardag.

## Steingrímur Johnsen.

Sú þögn er eins döpur og þungbúin nótt,
er þagnar fagur söngur og alt verður hljótt.

En þingri er sorgin, er söngvarinn deir
og sundur brostinn strengurinn hljómar ei meir.

Sú þögnin er sárari en svartasta nótt,
í sölum auðum verður svo grátlega hljótt.

Nú grúfir hér ifir oss þögnin svo þung,
því þögnuð er nú röddin, sem jafnan var ung.

Og söngvarinn horfinn sem hljómur, er deir,
og hjartans strengur brostinn og titrar ei meir.

Hann vinunum var eins og ljúfasta lag,
það lag er orðið minningar bergmál í dag.

Digitized by Google

Og autt er í sölum og sorgin er þung,
en sífelt vakir minningin fögur og ung.

Hún singur um líf hans með hugljúfum hreim,
sem hverfur trauðla burtu í ómælisgeim.

Og vinunum léttir hún hugstríð og harm
og hjúfrar bestu svaldögg í ástvina barm.

Nú söngvarinn hvarf oss og hljótt er í sal,
í hugum orðstír prúðmennis lifa þó skal.

## Aldamótavísa.

Tímans djúpi er öld sem alda
eða gári á stærri báru;
mannsins ævi er hún hafið
istu landa milli stranda;
þjóðum röst með kólgukasti.
Kaldlind ímist straumsins alda
báti snír að broti eða
ber hann iða í strenginn miðjan.

Þegar síðast röst tók rista
róðrarlið að níu miði,
Íslendingar áttu þunga
öfugstreima leið og höfugt
ilgjukast að birðings borðum
brest í siglu og hverri festi,

Digitized by Google

fáa undir ár og stíri,
illa vegi á sollnum legi.

Fáir vaka. Víða hrekur
veigalitla gnoð um boða,
uns þá vekur boðabrakið,
bistist lund og starfaþistir
falla á árar, fara að stíri,
festa gæta og siglubresta,
vinda að húnum voðir breiðar,
vilja leiðarstefnu skilja.

Er nú röst á enda farin;
Íslendingar fengu lending
verri heldr en helst þeir vildu,
hart er enn að þurfa að kvarta.
Betur skildi í horfið halda,
hvast þótt grípi næstu rastar
straumamót um stíri litið,
stöfnum beita rétt að höfnum.

Hníg í djúp þitt, öld, sem alda
eða gári á tímans báru,
flit oss ifir að öðru hafi
istu landa milli stranda,
þrjót þú röst með kólgukasti.
Kalla tímans straumar alla
hrausta menn til harðrar vinnu:
handar brosa fegri strandir.

Digitized by Google

Stutt skal dvöl á straumamótum,
stafni beint til nírrar hafnar,
fjölgað seglum, festar treistar,
fegri sigla og tígulegri.
Fleiri skulu og fegri árar,
falla betur stokkar allir,
hækka borð, en hefta verður
hjálmunvölur farartálma.

Við oss blasir beina leiðin
bara ef ögn á stjórn er farið.
Nú skal beita þá til þrautar,
þar til skeiðið versta er farið.
Látum rása Gamm og geisa,
gerum-at hægja skrið né vægja.
Hann sem lífsvon hefir eina,
hvað sem ríkur aldrei víkur.

Stari eg fram á vegi vora,
vil ég sjá, hvað örlög hilja:
Sé í hilling handar öllu
hefjast láð úr dimmu gráði.
Teigist mjöll um tinda alla
tekur skógur þangað nógur,
neðar rindar, grónar grundir,
grænu túnin, engin vænu.

Bili þétt í öllum áttum
eiga þessa fögru teiga



Digitized by Google

gróðri með til gagns og príði,
garða fagra, ríka af arði.
Svífa skip með siglur háfar
seglum þöndum fram með ströndum,
draga gull úr græði sollnum,
gnægð af auði bera á hauður.

Starfsöm þjóð og glöð í geði
græðir land að fjörusandi
alla leið frá efstu fjöllum,
afli beitir, krafta neitir.
Fljót og lindir létta undir,
líðnum starfa margt til þarfa,
síðan lærðist, líð að arði
leggja taum við sjálfan strauminn.

Hagur andinn, ljós er lundin,
leitar manna hver hins sanna;
ást við land og líð er bundin,
leitast öðrum hver að veita.
Gott er hjarta, hugsun réttri
happsæl beitir þjóð af kappi,
viljinn fastur, fjötrar leistir,
frelsið laust úr gömlu helsi.

Þessi hilling handar öllu
hún er vonin Íslands sona.
Ber oss nía öld sem alda
eða gári á tímans báru
þangað. Nú ei liggjum lengi,

Digitized by Google

leitum áfram krafta neitum.
Látum rása Gamm og geisa
gerum-at hægja skrið né vægja.

## Benedikt Sveinsson.

Þín sonarást sá Fróns vors fjöll,
hve fáklædd þau úr hafi rísa,
hún sá, hve kaldur andi ísa
oft eiðir fagran blómavöll.
Hún sá að þjóðin þurfti að vakna,
ef þéttir hnútar ættu að rakna.
Hún vildi tengja sál við sál
og síðan hefja frelsismál,

Þín von sá öll þín ættlandsfjöll
í iðjagrænum skógi vafin
og tún og grundir grasi kafin
og sólarbros við blómavöll,
Hún sá, hve vakin þjóð að þörfum
með þreki gekk að tímans störfum.
Og hún sá viljans stælast stál
og sterkt og örugt frelsimál.

Og trú þín reindi að flitja fjöll
og fekk þér krafta til að vinna
að sigri vænstu vona þinna;

Digitized by Google

að þessu hneig þín iðja öll.
Hún reindi að vekja þjóð til þarfa
og þrísta' henni til nírra starfa.
Og vilja þíns hún stældi stál
og stirkti alt þitt frelsismál.

Vér þökkum þína ættlandsást
er eldinn þinna fögru vona
og trú á lífsþrótt landsins sona,
og líf þitt príddi og aldrei brást.
Og blessist jafnan öll þín iðja,
sem átti þetta land að stiðja.
Og dáins skal þitt skiljast mál
og skírast betur viljans stál.

## Jón Þorkelsson
### skólastjóri.

I.

Nú minnumst vér klökkir á æskuár,
vor ástfólgni *rector*, sem hvílir nár.
Því seint mun oss gleimast þitt góða starf,
er gafst þú oss lifandi menta arf.

Og það verður einróma allra mál,
þú elskaðir skólann með hug og sál.
Og því er í hug vorum þökk og lof,
er þú fer til hvíldar við aldurs rof.

Digitized by Google

Þinn andi var frjáls og þinn hugur hreinn,
og heitara elskaði' ei maður neinn
hið ilhíra málið og ættarfold
en öldungur sá, er nú birgist mold.

Vor þjóð skal sjá håvagsinn minnis-meið
of moldunum þínum við loftin heið.
Því fár var svo hjartfólginn öllum einn,
svo *integer vitæ* í geði hreinn.

II.

Góður varstu
og gnægð þú áttir
lofsverka
og líknstafa.
Þig ég átti
öllum trúrri
vin og allra
veglindastan.

Skarð er nú
firir skildi orðið
og vinfátt
vinaþurfa.
En góð er minning
göfugs vinar,
þótt helfregn
harma veki.

Digitized by Google

## Ólafur Finsen, læknir.

(Brúðkaupsvísa)

Hann Óli Finsen vatt upp voð
á vænu og traustu fleii
og sigldi af stað í sólarroð
og sá í móti degi.
Þá leit hann ifir lífsins haf,
er lá að bernsku sandi,
en vonarhnjúkum vindur af
þá voðir allar þandi.

Svo flaug hann eins og elding fram
um ægi í þægum vindi,
og undir borði græðisglam
þá gladdi formanns lindi.
Svo leið og beið, uns boða sá
hann beint framundan stafni;
þó áfram hélt hann Óli þá
í allra goða nafni.

Í miðju hafi stóð þar steinn,
við stormaleik hann undi
og stóð þar ramur, brattur, beinn,
en báran um hann hrundi,
Og boðar klufust kolli á
og kistust bergið viður;
það var sem héngi hetta grá
um hafstein þennan niður.

Digitized by Google

En Óla lítið brá í brún,
hann brá við hjálmunveli,
en kjölur djúpa risti rún
á Ránar breiðu hveli;
og bátnum vatt hann hratt í hlé
og hleifti fram hjá steini,
en boðinn niðr í hafið hné.
svo hann varð ekki að meini.

Nú lagði bráðan beitivind
af bröttum lærdóms fjöllum,
en áfram báru hleipur hind,
þótt hrikti í strengjum öllum.
En nokkru seinna sást í hlé
á svörtu skeri bóla;
sem vofa úr djúpum ver það sté
og vildi hremma Óla.

Hann beitir þá sem þverast má,
og þótti sínt að skeiðin
þá mundi firir nefið ná,
og næst því batna leiðin.
Þá reis úr djúpi risi stór
og römu líkur fjalli,
en geigvænn eins og Þrumu-þór;
og það var gamli Halli.

Hann hrindir Óla skipi á sker
og skrafar næsta glaður:
»Ja, *sennilegast* sínist mér

Digitized by Google

að sigla á skerið, maður«.
Og Óli þá á Ægi hét,
en öldur á súðum duna,
og þessi orð hann int þá lét:
»Eg ilt skal Halla muna«.

Og þó að eitthvað skemdist skeið
því skeitti Óli valla,
hann sigldi áfram sína leið
og sá ei meir til Halla.
En skömmu síðar stjarna sté
af straumi hafsins breiðum,
en bjartur geisli á bárur hné
og birti á Óla leiðum.

Og hjónabands á hafnir inn
nú heldur gnoðin búna,
við stírið er hann Óli minn,
en uppi segl við húna.
En sú sem honum lísti leið
að lukku og gleði ströndum
við hafnartanga tengir skeið
og tekur manninn höndum.

Þau fara saman lífsins leið,
hann ljúfum undir böndum.
Þeim verði leiðin ljós og greið
á lukku og gleðiströndum.
Á Ingibjörgu og Óla þá
í ákefð Hymen kallar;

Digitized by Google

og drekki nú hver sem drekka má
og drekki þeim heillir allar.

## Formáli firir leikum 1895.

**(A. og B. sitja í herbergi A.s og tala saman).**

A.: Til skemtunar er fátt um föng,
og fatast gleði í Reikjavík,
og vetrarkvöldin verða löng.
En væri skáldin okkar rík
af andagift og öðru því,
sem einhver væri slægur í,
þá mundu þau geta glaðað þjóð.
Því að gott er að heira fögur ljóð.

B.: Bjóddu þá heldur hundi köku.
en heirnarlausum sálum stöku.

A.: En hvernig læt ég, það ert þú,
sem þarna situr. Heirðu nú.
Til hvers hefir þú æfi alla
Iðunnar bljúgur lagt á stalla
tómstundir þínar, þrek og dug,
þolgæði, von og allan hug,
ljái hún þér ei ljóðasnild
líðum að skemta nokkur kvöld?

B.: Fjöldinn skilur ei skáldsins mál;
skilur þar heljardjúp á milli.

Digitized by Google

Fjöldinn vill aðra eirnafilli
andlausa, sneidda lífi og sál.
Hann veit ei, hvaða mál hann mælir,
mirðir þjóðerni sitt og skælir,
tal hans er bara um trúlofanir.
Hann tiggur það upp, er skirpa Danir;
múlbundinn upp við jórturjötu
japlar hann á því sí og æ.
Andi hans liggur eins og hræ
við þjóðarinnar þirnigötu.

A.: Sárirði þín ég síst vil lasta,
sönn mun og einlæg gremja þín.
Þó má ei steini þungum kasta
á þessa menn. Um forlög sín
ákvæðisvald þeir ekki hafa.
Orsakarnauðsin batt á klafa
heiminn og alt sem er og lifir,
öllu hún þunghent drotnar ifir.
Fjöldinn er misjafn sem þú segir,
samt mun ei kosta varnað honum.
Svo get ég að þú sjálfur eigir
sæti þitt þar og fer að vonum.
En hafir þá krafta ifir aðra,
sem aldrei tala eða sífelt blaðra,
neittu þess þá og þíddu jakann,
sem þrumir ifir lífsins straumi,
það hjálpar lítt að kvarta um klakann.
Kveddu nú fjöldann upp úr draumi.

Digitized by Google

B.: Heldur vildi' eg með hljóðstaf einum
hörðustu vekja líf úr steinum,
en vekja upp af dauðadraumi
dauðíflin, sem að takmarks vana
eitthvað í blindni áfram flana
afllaus með seirðum vanans straumi.
Heldurðu að nokkur hugsjón megi
hugskoti þeirra birtu færa
eða þar minsta neista næra,
svo að þeim birtist brún af degi?
Betra er að rækta brunasanda,
berjast við jötna, temja ganda,
heldur en að vekja auman anda
oddborgaranna milli handa.

A.: Ég held ég skilji hugsun þína:
Í hilling sérðu vonafjöllin
og vilt um eilífð á þau blína;
en skilirðanna að skrefa völlinn
og skilningsleisis vinna tröllin
þú vilt ei hræra legg né lið,
nema leiðin eggslétt blasi við.

B.: Ég vil, en hvaða vopnum má
vinna þeim næturtröllum á,
sem vaninn hefur verði á.
Leiði ég hugsjón vígs á völl,
við henni taka hlátrasköll,
því að heimskan á hér hástól sinn

Digitized by Google

og hábindur allan skilninginn,
svo gæfur sé hann sem sauðurinn.
En detti einhver um sannleik samt
og sjá hann hljóti, þá nær það skamt.
Því að hér er engin einurð til.

A.: Því meiri er þörfin, maður sæll,
að manna sig upp og vera ei þræll
lasta þeirra, sem líta aðra.
Lítið er gagn um slíkt að þvaðra
hér innan fjögra hússins veggja.
Heirðu nú, kjóstu annað tveggja:
að vera skjálfandi, skekinn reir,
sem skrjáfar í um leið og hann deir
rétt eins og skríllinn emjar aumur
einurðarlaus og skilningsvana.
er fleigir honum fram að bana
fallharður úfinn skapastraumur;
ellegar nú að hefjast handa
og hlekkina brjóta af fólksins anda.

B.: Mig brestur ekki einurð til
og ekki heldur góðan vilja.
En segði ég, hvað víst ég vil,
þá veit ég enginn mun það skilja.

A.: Alt má segja svo allir skilji;
alt sem til þarf er góður vilji.

Digitized by Google

B.: En hvaða aðferð ætli þá
sé einna best að hafa?

A.: Að láta þá sig sjálfur sjá,
því að sjón leifir engan vafa.
Leiddu þá fram með lit og svip
og ljósi bregð á hugskot insta.
Á hörpuna töfra gríp þú grip
og galdraðu fram hið allra minsta,
sem geimist dulið geði í,
hvort geisli það er eða sortaskí.
Í stuttu máli: lífið leiddu
á leiksvið fram og rektu og greiddu
flókna gátu líða lífs
og lundarfar bæði manns og vífs.
Skemtun bæði og skilning vek.
Skútirtu vondra manna brek.
En hældu þeim, sem hátt vill stefna
og heit sín reinir til að efna
og djörfung hefur að segja hið sanna
og síslar um velferð allra manna,
en hugsar ei mest um sjálfan sig.
Svona er ráð mitt. Hertu þig.

B.: Ég á að sína lífið í leik;
lísa því, hvernig vonin, gleðin
vermir, lífgar, vekur geðin,
en sorg og víl þau velkja bleik.

(B. tekur hatt sinn og kveður og fer. Tjaldið fellur.)

Digitized by Google

## Páll Jakob Blöndal
### læknir.

Enn varstu, dauði,
óvæginn og harður,
enn hjóstu' í blindni beittri skálm.
Móti þér sjálfum
mundum, ef gætum,
vér benda harðan hefndar álm.

Drenglindur vinur
var hann okkur jafnan,
en nú er farið fjörvi hans.
Fagnaður drúpir,
drúpir stórfeld risna
við helför þessa höfðingsmanns.

Frændurnir deia,
fé til þurðar gengur,
en minning lifir ár og öld.
Því skaltu' ei hælast,
hel, á köldum vetri
þótt vin vorn geimi gröfin köld.

Hollvina hugur
honum skal nú verða
lífreitur góður um ár og öld.
Þakklátri minning
munum dáinn geima,
uns ævidaga kemur kvöld.

Digitized by Google

## Jón Sigurðsson.

17. júní.

Er júnísól að baki blárra fjalla
í bláum unnum lokka gullna fól
hin firsta, er leistu, frelsishetjan snjalla,
þá first skein ættjörð þinni vonarsól;
því góður var þín fæðing firirboði
um framtíð, er þú landi þínu bjóst.
Þitt æfistarf var Íslands morgunroði
og athvarf þess þitt hugumstóra brjóst.

Þín fölskvalausa ást á ættjörð þinni
var íslensks þjóðaranda vegaljós.
Þín hreina lund með hetjueinurð sinni
í heimi andans var sem fögur rós,
er ilmi lifjar morgunblæinn blíðum
og broshír príðir fagurgróinn völl;
hún jók oss hug, er birti af betri tíðum,
og bætti og príddi þjóðlífsblómin öll.

Þú kendir oss af velli ei að víkja,
er verja skildi gott og réttlátt mál,
og aldrei vora sannfæring að svíkja.
Þitt sverð var vilji traustur eins og stál.
Því beittir þú í þarfir landsins kalda,
ei þraut né hættur léstu ægja þér.
Eins trútt skal minning þinni þjóð vor halda
sem þínu dufti gröf í skauti sér.

Digitized by Google

Vér minnumst þín, er júní-sólin sígur
með sigurbrosi í djúpa marar sæng.
Vor vonarsól í hafdjúp aldrei hnígur,
til himins oss hún ber á léttum væng.
Og meðan vonmál hjarta mannsins hressa
og hrímgir tindar mæna yfir sæ,
skal landið þitt æ burðardag þinn blessa
og blessa þig og verk þín sí og æ.

## Sumargleði.

Enn þá bilur bala og hól
ber og vindar stríðir,
bráðum ljósmild sumarsól
sveipar gróðri hlíðir.
Hvort þér vor eða vetur er,
vinur, inst í geði,
hafa mun hún handa þér
hreina sumargleði.

## Jón Bjarnason.

F. 11. október 1823.
D. 11. maí 1905.

**Kveðja frá Elínu, Magnúsi og Helga, Bjarna, Sigríði Bjarnadóttur, Þorsteini og Eisteini.**

Þú vonaðir alt, þú eignaðist fátt,
nema' ástsæld af liðnum snauða.

Digitized by Google

En föðurlands ást og einurðin hrein
og æskan þér filgdu' í dauða. —
Nú fer von, nú fer ást þín ung til grafar.

Þig bagaði ellin, æskunnar vor
í ómálga ríkti geði.
Vor firstur þú studdir fákæn spor
og frömuður varst til gleði. —
Nú fer von, nú fer ást þín ung til grafar.

Svo kveðjum vér þennan birkibein,
sem brandi ei rendi' í slíður,
þótt við honum glotti óþökkin ein
og auðnin á flestar síður. —
Þó fer von, þó fer ást hans ung til grafar.

## Togdrápa.

**til Björnstjerne Björnson 8/12 1902.**

*Kvæðis upphaf.*

Um óravegi
mót ársól og degi
Fjallkonan lítur,
er fjarskinn slítur
úr bræðrabandi
frá bróðurlandi,
norðan leið alla
til Noregs fjalla.



Digitized by Google

Hún í árdaga
íta seglhaga
sá til stranda
sækja og landa,
norska kinstafi
komna af úthafi
með búslóð, fræði
og fögur kvæði.

Ei fjarskinn buga
má bróðurhuga,
fljúga má andi
að ættarlandi,
þó að hafalda
hristi gnífalda
og stormar köldum
stikli á öldum.

*Firsti stefjabálkur.*

Stefið:

Drenglindur andi
í ættarlandi
frelsið geimi
fegurst í heimi.

Firsta stefjamál.

Minninga vorra
móðir og Snorra,
Hrímlands ættir
og heillavættir
heilsa með þökkum
og huga klökkum

Digitized by Google

sjötugum óðar-
snilling frændþjóðar.

Ást á frelsi
og fjón á helsi
lögðu ungum
þér orð á tungu,
eld í huga
og ósk að duga
landi og líði
í löngu stríði.

Lést þú óði
og öflgu ljóði
vakinn þróttinn,
þagnaði óttinn.
Bjarkamálin
björtu stálin
hertu og hvestu
hinum bestu.

Stefið;

Drenglindur andi
í ættarlandi
frelsið geimi
fegurst í heimi.

Annað stefjamál.

Þú hinn stirki
að stórvirki
þjóð til þarfa

Digitized by Google

þreittir starfa.
Firir fullhugum
fríðum öflugum
merki barstu
og bestur varstu.

Því er landi
lítill vandi
úrlausn finna
óska sinna,
sem á slíka
í sóknum ríka
marga fullhuga,
fríða öfluga.

Meðan löndum
lá að söndum
boða keirir,
né björgum eirir,
þín kraftaljóðin
mun kveða þjóðin
og frelsisandi
una í landi.

Digitized by Google

*Annar stefjabálkur.*

Stefið:

Harpan þín lætur
og hlær og grætur
í sorg og gleði
svalar geði.

Þriðja stefjamál.

Frá hjartans grunni
þér hrutú af munni
orð, sem vér unnum
og allir kunnum;
af djúpum rótum
á föstum fótum
munu þau standa
í muna og anda.

Vakir hlátur
og viðkvæmur grátur
hörpu þinnar
í hugum innar,
æskuóma
og unaðshljóma
á hjartna strengi
slóstu lengi.

Vonirnar bestu
búast léstu
hörpu hreimi,
í hugargeimi
brástu upp ljósum,

Digitized by Google

er best vér kjósum,
fögrum geðgrónum
góðum hugsjónum.

Stefið:

Harpan þín lætur
og hlær og grætur
í sorg og gleði
svalar geði.

## Fjórða stefjamál.

Ungir vér fundum
og öllum stundum
dögum og nóttum
dírmætt sóttum
gullið góða,
gull þinna ljóða;
þann auðinn glæstan
vér gátum stærstan.

Ungum að hlustum
allir þustu
bragðs þíns hljómar
og hörpu ómar,
færðu sólstafi
frændum í úthafi
sem þá grund orna
geislar um morna.

Þinnar síungu
söm er snild tungu,

Digitized by Google

hugar hvassleiki
hjartans skírleiki.
Morgunn var fagur
og miður dagur,
sól skín á kveldi
með sama eldi.

*Slæmur.*

Þér nutuð Snorra
og snillinga vorra,
en hörpu þinnar
í hugum innar
unaðshreima
vér æ munum geima,
leikrit, sögur
og ljóðin fögur.

Seint mundu hvarfa
úr hugum arfa
ættarböndin,
sem binda löndin,
en þó fastar
öllu bastu
snild þinni anda
orra landa.

Frágum þér engi
á ættarvengi

Digitized by Google

ljúfra lof fengi
af líða mengi.
Slá þú enn lengi
ljúfa strengi,
vek þú enn drengi
að vígs gengi.

## Vorhiminn, vonir.

Þú ert friður, breiður, blár
og bjartar lindir þínar,
þú ert víður, heiður hár
sem hjartans óskir mínar.
*Þorsteinn Gíslason.*

Fagur ertu, vorhiminn, og fögnuð vekurðu. Þú ert bjartur og blámadjúpur, hreinn ertu í heiði og huggleðjandi, ómælisvíður og vonir glæðirðu. Lengstum mun ég minnast, hve glaður ég var áður í æsku minni, þegar þú þandir, vorhiminn, væningina bláu ifir hauður og haf. — Lundin var létt, en loftið var hreint, blærinn var blíður og brosandi jörðin vafin í grænum gróðri. Brjóstið þandist út og þreitan hvarf, þegar lífsandi vorsins lék um mig allan. Hugurinn hló og hjartað ilnaði og augað teigaði alla fegurð. Þar hlógu við mér dalir og grænar grundir og ár runnu um eirar út í sjóinn silfurbjartan. En utan um var hringur úr háum fjöllum, sem gnæfðu

Digitized by Google

við loftið sem landamarkjagarður milli þess, sem augað sér og ómælisvíddar. Hugurinn hóf sig til flugs. Hann vildi sjá og vita, hvað það væri löng leið að fara, áður en upp væri komið í hæstu hvelfinguna á himni vorsins. Þangað dró hann þráin, þangað leiddi hann löngunin að komast firir endi allra hluta og finna upphaf als. Hví viltu hætta þér, hugur, út á himindjúpið á veikum væng? Þú finnur engan enda á endaleisunni. Þú flígur og flígur en fljótt muntu þreitast. Þú snír bráðum aftur ofan til jarðar, angurvær og engu nær. — Þetta veit eg nú, en þá var annað. — Hugurinn flaug en færðist þó eigi nær himinsins heiði. Honum dapraðist heldur flugið og jafnfróður fór hann til jarðar aftur. »Hvað er að frétta af ferðum þínum, eirðarlausi andi?« sagði ég. »Langtum er himininn lengra burtu en auga eigir eða andi flígur«, sagði hann og drúfti hjá mér dapur í bragði. — Þá varð mér litið á laglega stúlku, er stóð þar við hlið mér, hírleit, brosandi og himinglöð.

»Hvaðan ertu, hírleita mær? Áttu nafn samboðið indisleik þínum?« »Bæði eigum við áttbaga saman, en Æska heiti ég og indið er filgja mín«.

»Vertu þá hjá mér og veittu mér indi, því að hugur minn er dapur. Himinsins enda

Digitized by Google

leitaði hann lengi á leiðunum bláu. En flugþroti varð hann að fara til jarðar. Því er mér mesta þörf á indi«.

»Þú varst barn og Bernska sistir mín filgdi þér hvert fet, er þú steigst, og leiddi þig meðan líf hennar vanst. Nú er hún dáin og draumahaugur mun henni orpinn í minningu þinni. Þá fór hugur þinn í himinleit að finna endi allra hluta. Þá kom ég, Æska, þér til indisbóta, til stuðnings og stirks firir starfgjarnan anda, til hvatningar þér, ef þú þreitist að leita að sannleikanum, sólu andans. Mun ég filgja þér meðan ég lifi«.

»Á ég þig, Æska? Alt finst mér glaðna, láð og lögur, loft og hugur. Aftur vil ég hefja huga til flugs«.

»Hví viltu elta himinblámann ómælanda og endalausan? Litastu heldur um og leitaðu að öðru, sem hugurinn vill fá og höndum taka. Þekkirðu þessar? Þær eigum við«.

Þá rendi ég augum um engið. Hírleitar meiar slógu hring um okkur, sumar smáar og sumar stórar, en allar fagrar og indislegar. Sumar voru bljúgar og blíðar ásíndum og draumsæl angurblíða í augum þeirra. Þá voru aðrar með eldlegu fjöri en glaðar og góðlegar og enn aðrar ákaflindar, eirðarlausar og ofurhugar.

Digitized by Google

»Áttu þetta fólk, Æska mín góð?«

»Við eigum það bæði«.

»Hvað heitir sú ljóshærða, létt undir brún?«

»Löngun er hún kölluð, og allar heita þær einu nafni«.

Þá kom ein löngunin á fætur annari og vöfðu mig allar örmum sínum og sögðu allar hið sama: »Mig langar, mig langar«.

Þá mælti Æska: »Ekki þarftu þessar að elta, og munu þær furðu fastheldnar verða. En kvikt er hér fleira, er físa mun þig að fá og eiga«.

Þá rendi ég augum um láð og lög og himins heiði. Alt var það fult af engilfögrum, vængléttum verum með vinhlí augu, ljúfa rödd og ljósan svip, glóbjartan koll og glaðan hlátur. Þær brostu allar í einu til mín: »Ég er hérna hjá þér, hægt er að ná mér«. Þá kvað við óp úr ótal munnum: »Mig langar, mig langar«.

»Eigum við þetta alt saman, Æska mín góð?«

»Víst eigum við, og er eign sú fögur. Héðan af verður það hlutverk okkar, að handsama af þeim sem allra flest«.

»Hvað heita þær allar?«

»Þær heita vonir«.

Digitized by Google

»Eina sé ég svo unaðsfagra, veglega og væna sem vorsins sól, er úr hafi hún rennur á heiðloftið upp, en gullinlokkar glóa og geislum stafa gegn um sjávar silfurúða og augað vermir alla jörðu, er lítur það lífgjöfult ifir land og sjó. Þessa hígg eg allra vona vænsta og hana vil ég firsta höndum taka. Hvað heitir þú hin vænsta meðal vona?«

»Ég heiti Ást. Aldrei var neinn, sem ei alt mundi gefa til þess að eiga mig *eina* stundu. Ég er hérna hjá þér, hægt er að ná mér. En eigi ég þér ráð að ráða, þá taktu okkur saman, sisturnar báðar«.

Þar stóð sistirin við hlið hennar, mild eins og mánaljós, hrein eins og himininn sjálfur og sterkari en dapur dauðinn. Það var Trigðin og taka vildi ég báðar.

En þær hopuðu á hæli undan og þegar ég hugðist þær höndum taka, þá voru þær liðnar langt í burtu. En þegar ég var að þrotum kominn og ætlaði að hætta eltingunni, þá heirði ég orðin: »Ég er hérna hjá þér, hægt er að ná mér«. Þá ógs mér aftur afl og löngun og leikurinn barst ifir börð og hvamma, holt og hæðir, hamra og gljúfur, urðir og eggjagrjót, ár og bárur. Margt fall féll ég, oft varð fótur sár og hrufluð hönd, oft marðist brjóstið á blágrítiseggjum; en á-

Digitized by Google

fram hélt ég þó eigi að síður og neitti allrar orku minnar. Þá heirði ég eitt sinn andvarp að baki, dapurt eins og dauðastunu. Ég leit um ögsl; þá var æska dáin. Sisturnar voru við sjónhring ista, aldrei fegri og aldrei fjær. Þeim mátti ég aldrei, mun aldrei ná. Og hafi mér síðan sínst þær koma og mæta mér á vegum, þá var það Ligin í ljósgerfi og Tælnin. Fegurstu vonirnar eru farnar og horfnar.

Fegurstu vonirnar voru farnar og horfnar. Bernska og Æska báðar dánar. Meðan æskan lifði og ég elti af kappi sisturnar vænstar vona, þá sá ég oft svein einn fagran flögra firir mér. Stórvagsinn var hann og sterklegur, íturvagsinn og ifirbragðsfagur. Þar var þroskinn, fögur von og væn, er ég taldi mér alveg vísa. Fegurstu vonirnar voru farnar, æskan og indið dáin. Þá kom þroskinn til mín. En minni var hann að öllu og ógöfugri en ég áður sá hann.

»Þú óskaðir þess oft að þú ættir mig«, sagði Þroskinn. »En miklu er ég nú minni en skildi, og erfiðir munu mér ævidagar, first ást og trigð þú ekki náðir«.

»Enn á ég margar vænar vonir, fagrar og físilegar, og handsömum þær nú hverja af annari«.

Digitized by Google

»Langanirnar eru sterkar og vonirnar vænar, en okkur mun verða erfitt að ná þeim. Þær eru flestar filgispakar við sisturnar vænstar vona. Sko, hvar þær halda sig nú«.

Þá leit ég upp og sá þær ist við sjónhring. Þar flögruðu þær í fjarska allar, daprar og dauflegar. Þær sindúst allar eins langt burtu og himinheiðið. Þá varð mér æði þungt í geði og sorti lagðist á land og sjó, en vetrar ís ifir andans lindir.

---

— — — — — — — — — —

En ég mátti ekki trúa
að lægi grjót á gnípum þeim.
*Ben. Gröndal.*

Mitt hold varð aumt og iljum blæddi þá,
er urð ég tróð og brunahraunin svörtu.
En einnig sál mín steitti steinum á
og steinar þessir voru mannleg hjörtu,
*Stgr. Th.*

Sorti lá ifir landi og sjó, en vetrarís ifir andans lindum. En aldrei var svo frostharður fimbulvetur né svo kaldsollið haf og hauður, að vorsólin gæti ekki vakið aftur lífið og leist það úr læðingi sterkum. Aftur þandir þú, vorhiminn, vængina þína breiðu ifir hauður og haf, hreinn og bjartur og huggleðjandi. Þá hvarf sortinn af sjó og landi og vetrarísinn af andans lindum. Hafið var bjart og

Digitized by Google

hauðrið grænt, en háfjöllin báru himin á ögslum. En á hátindum undir himinskautum sátu þær, vængléttu vonirnar allar. Vorblærinn lék sér að lokkum þeirra, en sólstafir glímdu á glöðum kinnum. Hugnæmt var brosið og hlítt var málið, er þær kölluðu ofan til mín: »Ég er hérna hjá þér, hægt er að ná mér«. Nú hélt ég upp eftir hlíðar geirum, en grítt var þar í rót og geisibratt og ifir uppi klettar og klungur. Þó hélt ég altaf áfram, því að uppi á tindinum efsta vissi eg vonirnar vænu, sem vildi ég ná. Þar á hugði ég himin stiðja vorléttum væng og alt því hreinna sem ofar drægi. En þegar ég hafði klifið háa hamra og þóttist náð hafa hæstu brún, þá litaðist ég um. Þar sem ég hugðist höndum taka heiðskírar vonir við himinskaut, þar lágu miklar mosaþembur, gráar og gróðurlausar, en holtasólei stök á holti gnæfði og músareiru fá upp úr mosa teigðust. Þar firir ofan var önnur brún. Þar lá nú himins heiðið bláa og brosandi vonirnar biðu mín þar. Enn þá átti ég langa leið, margar hlíðar og brattar brúnir, áður en komst ég á efsta tindinn. En jafnfjarri honum var himininn sem hlíðinni þar sem hóf ég göngu. Enn voru þær allar við ista sjónhring hinar vængléttu, brosandi vonir.

Digitized by Google

Og að eins gat ég þá eigt í fjarska sisturnar vænstar vona. En eina sá ég þar öllum fremri, djúpúðgari en drotningu hafsins, ifirlitsfegri en ástadísir, hreinni en heiðnorðrið og hlírri en vorblæ í viði. Hún hafði fannhvítan fald á höfði, en upphlut fjallbláma fögrum vafinn, lagðan með sætærum silfurböndum, en samfellan öll var iðjagræn, ofin glitskrúði grænna túna. Ég sá hana í fjarska, hún sat á tindi hráum og himingnæfum. En undir niðri voru engi græn, alskipuð hagspökum hjörðum, en fagrir bæir í frjóum brekkum, þéttskipaðir og þekkir sínum; andrík þjóð og iðin, friðsöm og frjáls, einörð og einbeitt, hugumglöð og hrein í geði. Fögur von og físileg um framtíð Íslands. Hið firsta sem ég lærði af föður mínum að elska og unna, var ættjörðin mín, öldum lukt og ísi þakin, sólu skinin, sævi rokin, grösum gróin og giljum beltuð, »móðurmálið hið mjúka og ríka«, hin fátæka, þrautgóða þjóð. Því leitaði hugurinn himinsenda á veikum væng, því vildi ég hugstola höndum taka sisturnar vænstar vona, því vildi ég þroskann hafa, því vildi ég hærra en haukar fljúga, til þess að handsama hjartans vonir, að ég vildi ættjörð minni reinast drengur og dugandi sonur. Nú stóð hún væn og vonum fáguð firir

Digitized by Google

augum mér sem hún á að verða. Hugfanginn stóð ég og horfði lengi á hana vænsta vona. Hana vildi ég feginn höndum taka. En vonum bráðar á vegi mínum hitti ég urðir og eggjagrjót. Gengust skór og grjóteggjar skáru aumar iljar. Misti ég þá sjónar á vænum vonum og skíru himins heiði; því einskis mátti ég annars gæta en að forðast eggjar og gjótur. Þó stungu þær mig svo meinlega illa að hneit mér við instu hjartarætur. Því varð mér æði þungt um göngu og aldrei mun ég vonunum vænu ná.

Fagur ertu vorhimin og fögnuð vekurðu, þú ert bjartur og blámadjúpur. Heiðvængi breiðir þú ifir haf og jörð og vongeisla sendir þú veikum hjörtum. Ég veit þig hátt ifir höfði mínu og fagrar vonir í faðmi þínum. Því set ég nú fót minn á sárar eggjar, harka af mér og horfi til þín. Í hinsta sinni ég horfa vil á allar vængléttar vonir, sem við mér hlógu. Síðan í urðina illu ég kom, hef ég þær aldrei augum litið. Það hef ég orðið alfegnastur að sjá ikkur aftur vorglöðu, vinhlíu, sólbjörtu, eldskíru æskunnar vonir og vertu blessaður, vorhiminn fagur, firir að hefja huga minn til þín. — Vek þú sí og æ vonir fagrar í huga minnar hrjáðu þjóðar, vek til vonsóknar vilja manna. En halt þú



Digitized by Google

ljósgjöfull himinn vorsins lifandi blettlausri landsins von. Geim hana óskemda öldum komandi, sem liggja hreinna og hærra en vér.

Nú kenni ég sviðans og kveðja hlít ég von og vorsins himin. Sorti legst ifir land sjó og vetrar ís ifir andans-lindir.

## Í vísnabók Unnar Benediktsdóttur.
(Huldu).

Illa brotin bein á huldu
blágrítis á eggjum huldu
míkja ljúflingsljóðin Huldu,
líf firir andarsárin huldu.
Ljóðum hennar líður unni
lands úr hjartastað að unni.
Sterklega kveður starfinn unni
stórra verka Huldu-Unni.

## Mælt af munni fram.

Aldrei má ég sjóinn sjá
svo, að ei mig langi
báru hvílast brjóstum á
og bilta mér í þangi.

Digitized by Google

## Austmannafull.

**(Kveðið 2. ágúst 1905).**

Hingað runnir
austan um unnir
ofar dinföldum
á djúpöldum
skálmahljómar
og skjalda-ómar
gjalla við eira,
gott er að heira.

Filgjast þar allir
Austmenn snjallir,
róm sinn hefja
og réttar krefja.
Enginn þar víkur,
enginn svíkur.
Þar í landi
er líf og andi.

Viljans stáli
og stirku máli
alloft vörðu
þeir ættar jörðu.
Erlenda valdið
þó enn lét haldið
ögrunar brandi
ifir landi.

Digitized by Google

En harðstjórn kveldar,
er hugans eldar
báli brenna
og bændur kenna
vald alþjóðar,
og vættir góðar
stiðja afl andar
og átak handar.

Nú er svefn þorrinn
sifþjóð vorri;
stælist armur
en ólgar barmur.
Hlæa mun hugur
en hvessast dugur
ef féndur brandi
fara landið.

Bíti þeim vigur
og veiti sigur
og frelsið góða
fremstri þjóða.
Á afl og hreisti
hugur treisti
og andar-gull. —
Svo er Austmannafull!

Digitized by Google

## Kveldkirð.

Hjá ströndum út við unnarstein
á öldur hafsins sígur ró,
í skógi höfgar græna grein
og grasi og lingi vagsinn mó.
En blærinn læðist létt á tá
og laufakossi hnuplar sér
og draumum laufið andar á
og óðar burtu fer.

## Alt skal lúta.

Harðfenga þjóð, ef himinn þinn dökknar,
horf þú til ófæddra, skínandi vona,
langt inn í vaknandi hugsjóna heim.
Sjá muntu eld, er aldregi slökknar,
inst í hug þinna drenglindu sona.
Alt skal lúta eldinum þeim.



Digitized by Google

